# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, MAÍ 1899. Nr. 3.

## Sálmr

EFTIR JOHN HENRY NEWMAN. *Þýðingin ísl. eftir Jón Runólfsson.*

1. Skín, ljósið náðar, myrkrin grúfa grimm,
æ, lýs mér leið,
og langt er heim, en nóttin niða-dimm,
æ, lýs mér leið;
um fjarlægð hulda hirði' eg þó ei neitt,
ef, herra, leiðir þú mig fótmál eitt.

2. Eg ungr var, og eigi bað, að þú
mér lýstir leið;
eg hugðist einfœr þá, en þig bið nú
mér lýsa leið.
Æ, gleym því, hversu gálaus mjög eg var,
hve glys og dramb mig ofrliði bar.

3. Eg veit, sem fyrr þú blessar lífs míns leið
og lýsir mér
í þrautum enn, í jökulnepju og neyð,
unz nóttin þver
og við mér brosa engil-andlit blíð,
sem elskað hef' eg lengi', en misst um hríð.

4. Svo áfram þá hið þyrnum stráða skeið,
er þú gekkst fyrst,
heim, Jesús, heim sem ljúfast barn mig leið
—í ljóssins vist,
að hvílast megi' eg eftir æfi-harm
í eilífs friðar ljósi guðs við barm.

---

## Sabbatsboðið.

Í fyrra kom út í Reykjavík bæklingr sá eftir D. Östlund, aðventista-trúboða, er nefnist „Hvíldardagr drottins og helgihald hans að fornu og nýju", 47 bls. í smáu átta blaði broti, titilblaðslaus. Og er tilgangr rits þessa að reyna að sannfœra menn um, að sjöundi dagr vikunnar, laugardagrinn, sé enn hinn guðlega lögboðni sabbatsdagr—fyrir kristið fólk á nýja testamentis tíðinni eins og forðum fyrir Ísraelslýð á gamla testamentis tíðinni. En það er vitanlega eitt verulegt trúaratriði meðal „sjöunda dags aðventista", kirkjuflokks þess, er hr. Östlund heyrir til. Ritlingrinn er í sex þáttum með þessum fyrirsögnum: 1. Uppruni hvíldardagsins. 2. Sjöundi dagrinn og lögmál guðs. 3. Nýja testamentið og hvíldardagrinn. 4. Vitnisburðr sögunnar um hvíldardaginn og breyting hans. 5. Helgihald sjöunda dagsins og mótmælendrnir. 6. Hvernig eigum vér að halda hvíldardaginn heilagan?

Trúarflokkr aðventista greinist í ýmsar minni deildir. Og hefir þess áðr verið getið hér í blaðinu, þegar minnzt var á bókina „Vegrinn til Krists". Flokkrinn er upp kominn innan reformeruðu kirkjunnar, og hefir því í frœðakerfi sínu aðallega eða eingöngu tekið tillit til þeirra kenninga eða þess skilnings á guðs orði, sem þar er ráðandi. Rökfœrslu-tilraunir aðventista geta og þar virzt hafa talsverðan sönnunarkraft. En fyrir lúterskum mönnum alls ekki, svo framarlega sem þeim sé nokkurn veginn ljóst, hverju þeirra eigin kirkja heldr fram í trúarjátningum sínum sem meginatriðum kenningar sinnar andspænis andastefnu reformeruðu kirkjuflokkanna yfir höfuð. Og að því, er snertir þennan helgidagsritling hr. Östlunds, sem nú hefir birzt á íslenzku, þá ber hann þess greinileg merki,

að hann er upphaflega ekki ritaðr í lútersku landi, eða—sem er hið sama—efni hans ekki að neinu leyti úthugsað með tilliti til lúterskra trúarskoðana. Vér trúum því ekki og kennum það þá auðvitað ekki heldr, að helgisiðalögmál Gyðinga í Mósesbókunum hafi lögbindanda gildi fyrir kristna menn. Hvert einasta atriði í löggjöf Mósesar um helgihaldið *hið ytra* er samkvæmt vorri kenning og trú algjörlega úr gildi gengið með hinni nýju fullkomnu opinberan kristindómsins. Þannig umskurnin, fórnirnar, hátíðahaldið o.s.frv. Og undir hátíðahaldið heyrir auðvitað sabbatshaldið gamla. Því þótt sanna megi, að sjöundi dagrinn hafi að guðs vilja verið til sem heilagr dagr löngu löngu áðr en lögmál Mósesar var út gefið, þá sannar það ekkert í þá átt, að því sérstaka helgihaldi hafi af guði verið ætlað ævaranda gildi. Fórnirnar voru líka til meðal mannkynsins sem guðlegr helgisiðr löngu löngu áðr en þær voru lögskipaðar í Mósesar lögmáli; og vitanlega féllu þær þó úr gildi með Kristi. Ekkert sannar það heldr til stuðnings löggildi laugardagsins í kristninni, að frelsarinn sjálfr gætti sabbatshalds-venjunnar gyðinglegu á dögum hinnar jarðnesku holdsvistar sinnar. Því hann gætti líka allra annarra gyðinglegra helgisiða, sem ekki komu í bága við guðs orð gamla testamentis ritninganna. Sjálfr var hann samkvæmt lögmálinu umskorinn á áttunda degi eftir fœðing sína. Og mætti þá eins álykta af því, að umskurnarboðið gilti fyrir kristna menn, eins og það, að kristnir menn ætti að halda sjöunda daginn heilagan af því Kristr gjörði það meðan hann dvaldi hér líkamlega á jörðinni. Flokkar reformeruðu kirkjunnar halda því yfir höfuð fram, að með kristninni hafi menn samkvæmt guðlegri bending haft dagaskifti að því, er til sabbatshaldsins kemr, gjört sunnudaginn að heilögum hvíldardegi í stað laugardagsins, og það þá auðvitað sökum þess, að frelsarinn reis frá dauðum á sunnudag. Gegn þeirri kenning standa sjöunda dags aðventistar óneitanlega býsna vel að vígi. Því ekkert boð eða bending er til í nýja testamentinu um það, að kristnir menn hafi á þann eða neinn annan hátt átt að skifta um dag. En hitt kemr skýrt fram í nýja testamentinu, og það er kenning lútersku kirkjunnar, að sabbatið gamla sé með öllu úr

gildi gengið með Kristi, það ásamt öllu gyðinglegu hátíðahaldi, —og ekkert nýtt hið ytra lögboðið í staðinn. Þessu til sönnunar þarf að eins að minna á þessi orð Páls postula í bréfinu til Kólossamanna (2, 16 og 17): „Látið þess vegna engan fordœma yðr fyrir mat eðr drykk, eðr nokkuð það, er snertir hátíðir, tunglkomur eðr hvíldardaga, sem allt er skuggi hins eftirkomanda, en Kristr er líkaminn sjálfr." Og með þessu fellr kenning þeirra Östlunds og hans flokksmanna um sabbatsdaginn alveg um koll. Öll þeirra röksemdaleiðsla til sönnunar sínu máli með öllu árangrslaus.—Vér kristnir menn höldum eða eigum að halda sunnudaginn, upprisudag Jesú, heilagan af frjálsum vilja, en ekki samkvæmt neinu lögmálsboði. Sunnudagrinn er að því leyti alveg undir sama númeri eins og jóladagrinn, nýársdagrinn, skírdagrinn, föstudagrinn langi og uppstigningardagrinn. Hve nær sem kristinni kirkju sýnist það hljóti að verða til góðs fyrir trúarlífið getr hún þar af leiðanda að ósekju tekið upp nýja helgidaga eða afnumið einhverja hinna gömlu helgidaga. Og þetta hefir kirkjan marg-oft gjört og gjörir enn í vorri tíð.—Lúter gamli vissi vel, hvað hann gjörði, þegar hann í Frœðunum kom með útlegging sína á þriðja boðorðinu: „Minnstu að halda hvíldardaginn heilagan." Eins og víst allir í kirkju vorri muna er útlegging hans á því boði svo hljóðandi: „Vér eigum að óttast og elska guð, svo að vér eigi fyrirlítum prédikanina né hans orð, heldr höldum það heilagt, heyrum það gjarnan og lærum." Hann nefnir hér engan dag. Skylda kristinna manna við guðs orð—hún og ekkert annað—liggr í þriðja boðorðinu eftir hans skilningi.

Bœklingr Östlunds getr enga aðra þýðing haft fyrir oss, lúterska Íslendinga, en þá, að koma oss til að ryfja upp fyrir oss barnalærdóm kirkju vorrar og halda honum fram gegn dagveljurum og lögmálsþrælum nútíðarinnar.

---

## Undarlegt!

Eftir séra N. Steingrím Þorláksson.

Ekki veit eg, hvað öðrum kann að sýnast, en undarlegt sýnist mér það, að eitt mál, alls ekki þýðingarlítið, skuli, að

því er virðist, hafa gengið fram hjá handbókarnefndinni svo kölluðu heima á Íslandi. Sérstaklega sýnist mér það vegna þessa, að málið hefir verið uppi í dönsku kirkjunni og þar þótt ástœða vera til þess að taka það til greina. En hafi ástœða verið til þess *þar*, þá mun hún ekki vera síðr á Íslandi. Svo líka vegna þess jafnvel hvað helzt, að eitt af því, sem skoða má eitthvert ljósasta hnignunarmerki trúarlífsins í íslenzku kirkjunni, sem sé hin þverrandi þörf hjá söfnuðunum á því að ganga til guðs borðs, minnir einmitt á málið og kemr manni til að hugsa um það.

Málið, sem eg hefi í huga, er um það, að presti sé leyft að útdeila sér sjálfr kvöldmáltíðarsakramentinu *með* söfnuði sínum, þegar söfnuðr hans eða einhverjir úr söfnuðinum ganga til altaris. Hér er ekki um það að rœða, að prestrinn geti veitt sér sjálfr sakramentið, hve nær eða hvar sem honum sýnist, heldr um það, að það sé ekki nauðsynlegt fyrir prestinn, til þess honum geti veitzt blessan sakramentisins, að hafa annan prest hjá sér í kirkjunni við altarisgöngu-guðsþjónustu safnaðarins, er veiti honum sakramentið. Hann megi gjöra það sjálfr.

Mun þetta mál vera nýmæli hjá oss. Býst eg þess vegna við, að tilfinningar fólks verði mjög svo á móti því. Sumum finnst það óviðkunnanlegt; aftr öðrum alveg óhafanda. Á þessu er ekki að furða sig. Mennirnir eru, eins og allir vita, töluverðar vanaskepnur, og eiga því marg-oft mjög ervitt með, þrátt fyrir alla tilbreytingar-löngunina hjá þeim, að fara úr ham eða jafnvel breyta til með ham, sem þeir fyrir vanann hafa vaxið upp í. Þótt ekki sé nema komið ögn við sjálfan haminn, rísa tilfinningarnar öndverðar. Vér Íslendingar erum yfir höfuð engin undantekning í þessu tilliti frá öðrum mönnum. Vér eigum eins og aðrir tilfinningar, sem eiga rót sína að rekja til vanans. Og ef snert er við því, sem vér höfum vanizt við, gjöra þessar tilfinningar vorar vart við sig. Eins og eðlilegt er verða þær hámæltastar, þegar eins og við það er komið, sem oss er hvað helgast, og fara á að breyta til einhverju í sambandi við það. Nú er oss kristnum Íslendingum, eins fyrir það þótt vér kunnum ekki að meta kvöld-

máltíðarsakramentið neitt líkt því eins og vera ætti, enginn hlutr þó helgari en það. Það væri því ekki neitt tiltökumál, þótt oss félli illa öll nýmæli, er snerta það. Svo fór fyrir mér, er eg las fyrst um þetta mál, sem minnzt hefir verið á. Mér var það mjög ógeðfelt, og er ekki laust við, að tilfinningar mínar sé enn þá fremr á móti því.

En vér megum ekki láta tilfinningar vorar fara í gönur með oss, heldr leitast við að hafa vald yfir þeim, svo dómar vorir verði ekki eintómir tilfinninga-dómar. Helzt til oft hættir þeim við að verða það. Verðum vér þá oss óafvitanda meinsmenn þess, sem oss eiginlega langar til að styðja.

Er þá í rauninni nokkuð á móti þessu, að prestrinn gangi til altaris hjá sjálfum sér ásamt með söfnuði sínum? Vaninn og tilfinningarnar geta ekki komið til greina, eins og bent hefir verið til, ef ekkert er þar á bak við þeim til stuðnings, annaðhvort eitthvað í eðli sakramentisins eða tilgangi frelsarans með það, sem banni það. En þegar að er gáð, er þá nokkuð í þessu tilliti á móti því? Nei, ekki sjáanlega. Að minnsta kosti fæ eg ekki séð það. Eða hvað í innsetningarorðunum eða við innsetninguna sjálfa ætti að vera því til fyrirstöðu? Frelsarinn sjálfr er gestgjafinn við borðið, hinn *veitandi, gefandi. Hann* segir: „*takið—; þetta er—; gjörið—.*“ Þetta hefir aldrei breytzt. Hann er enn þá gestgjafinn. Gestirnir eru gestir hans og veita móttöku því, sem hann réttir að þeim. Hvað ætti þá að hamla prestinum frá að vera gestr með söfnuðinum við borðið, jafnvel þótt hann hafi á hendi þjónustu þá, að rétta að hinum gestunum það, sem á borðinu er? Hvað ætti að banna honum að rétta að sjálfum sér hið sama, eða að taka úr sjálfs síns hendi, ef svo má að orði komast, það, sem frelsarinn réttir að öllum gestunum? Vitanlega hefir ekki hönd prestsins nein áhrif á sakramentið, heldr höndin frelsarans, hins ósýnilega, en þó nálæga borðherra sjálfs. Borðið er hans borð. Hann hefir sjálfr tilreitt það handa söfnuðinum sínum. Og er sjálfr nálægr veitandi og blessandi. Og þar sem ekkert er það í sjálfri innsetning frelsarans á sakramentinu né í eðli þess, er bendi í áttina til þess, að prestrinn megi ekki ganga til borðsins með söfnuðinum á

þennan hátt, þá ætti sannarlega ekkert að vera því til fyrirstöðu, ef hann sjálfan langar til þess. Það er ekkert sjáanlegt á móti þessu, nema siðvenjan og tilfinningarnar; en hins vegar margt, sem mælir með því.

Oft langar prestinn til þess að vera með söfnuðinum sínum til drottins borðs, en ástœðurnar banna honum það; því hann hefir engan embættisbróður hjá sér. Sjálfs sín vegna þarf hann þess með að ganga oft til guðs borðs. Staða hans og trúarlíf, samlíf hans við guð, krefr þess einmitt. En honum er það ekki hœgt siðvenjunnar vegna. Hún lokar fyrir honum veginum að borðinu, nema þá er sérstaklega stendr á. Hún hamlar honum frá að njóta blessunarinnar, sem hann þarfnast svo mjög. Prestinum er líka þörf á því, að ganga til guðs borðs með söfnuðinum sínum, vegna samlífs síns við söfnuðinn. Það þarf að vermast og styrkjast. Og hvar væri vænlegra fyrir það að leita sér nœringar en einmitt við hið sameiginlega náðarborð?

Auk þessa myndi söfnuðrinn sjálfr hafa beinlínis andlegt gagn af því; — ekki þó að eins í þeim skilningi, að allt það, sem verðr prestinum andlega til gagns, hefir söfnuðrinn líka gagn af. (Það væri gott, ef söfnuðir vildi hugsa um það atriði og lærði að skilja það.) Nei. Mér dettr í hug, að söfnuðrinn myndi hafa beinan andlegan hagnað af því. Ef prestrinn gengi iðulega til guðs borðs með söfnuðinum, myndi söfnuðrinn finna betr til þess en ella, að prestrinn stœði ekki í kirkjunni eins og annars vegar við sig, eins og gagnvart sér, eins og einhverskonar leyndardómsfullt djúp væri staðfest á milli sín og hans, en að hann væri *með* sér og væri einn limrinn á safnaðar-líkamanum, er þyrfti hinnar sömu nœringar við og hinir limirnir. Það myndi líka vafalaust styðja að því, að koma söfnuðinum til að hugsa um gagnsemi og blessan sakramentisins og kenna honum að fœra sér það betr í nyt. Gott eftirdœmi hefir líklega æfinlega verið affarasælasta prédikanin. Prestarnir ætti, að því, er altarisgönguna snertir, að gefa af sér gott eftirdœmi með því í verkinu að sýna það, að þeir kynni að meta blessan kvöldmáltíðarinnar og fœrði sér hana þess vegna iðulega í nyt. Það er ekki nema mannlegt, þó

fólk hugsi á þessa leið: „það er ekki nauðsynlegra fyrir mig að ganga til altaris en fyrir prestinn. Ef hann sjálfr trúir því, að það sé eins nauðsynlegt og blessunarríkt eins og hann segir, hví fer hann þá ekki oftar til altaris?" En prestarnir þurfa þá að geta átt kost á því. það vill oft verða ervitt fyrir prestinn að koma því við eins og stendr á. Sérstaklega er það á Islandi víða mjög ervitt, eins og allir vita. það er ekki æfinlega svo létt að komast að heiman til annars prests eða að fá annan prest til að koma til sín. Svo undir fyrirkomulaginu, sem nú er með altarisgöngur prestsins, banna ástœðurnar honum það marg-oft. Honum er beinlínis gjört erviðara en öðrum fyrir með að hlýðnast frelsaranum, er segir: „Takið og etið"; „drekkið allir hér af"; „gjörið þetta", og um leið að fullnœgja þörf síns trúarlífs. Er nokkur meining í því?

Og þótt nú prestrinn komist að heiman og fari til annars prests og sé hjá honum til altaris, þá eru vafalaust margir í söfnuðinum, sem ekki vita neitt um það, en búa sér svo til sínar hugsanir um altarisgöngur prestsins, án þess að taka nokkuð ástœður hans til greina. Auk þess gengr hann ekki með *sínum* söfnuði til altaris, þótt hann gangi annarsstaðar til altaris. Söfnuðrinn hans hefir ekki, að því er þetta snertir, dœmið fyrir augunum. Svo fer hann líka og prestrinn á mis við þá blessan að fá að vera *saman* við drottins borð. Er þetta ekkert smá-atriði. þá er það stórt atriði, að lang-flestum prestum verðr ekki unnt að ganga eins oft og þeir þurfa til altaris, nema þeim sé leyft að *gjöra það hjá sjálfum sér ásamt með söfnuðum sínum*. En ef drottinn leyfir prestinum það, og annað fæ eg ekki séð, *hver* eða *hvað* ætti þá að banna honum það?

Ef prestrinn gengi með söfnuðinum til altaris hjá sjálfum sér, myndi það hjálpa til þess að burtrýma þeirri hjátrú, sem án efa er til hjá sumum, að gengið sé til prestsins eins og væri hann sjálfr gestgjafinn við borðið. það myndi stuðla til þess, að hann eins og hyrfi betr, en skyggði ekki á frelsarann, og altarisgestirnir hefði betr en nú á sér stað, að og hygg, á meðvitund sinni þetta: „Eg krýp við borðið drottins míns. Eg er gestr hjá honum."

Í dönsku kirkjunni hefir prestinum frá árinu 1886 verið leyft að útdeila sér sjálfr kvöldmáltíðarsakramentinu; en þó því að eins, að honum hafi ekki verið unnt að ná til annars prests. Ekki hefir það komizt lengra. Eins og sjá má, er það gjört að samvizkumáli fyrir prestinn að nota sér leyfið. Í norsku kirkjunni var málið uppi um sama leyti, en skemmra á veg komið; því næsta ár kemr þar út form fyrir svona lagaðri altarisgöngu prestanna í sambandi við altarisgöngu safnaðarins. Er það form tillaga nefndar þeirrar, sem kirkjustjórnin þar setti í málið. Nefndin er eindregið með málinu og fer lengra en farið er í dönsku kirkjunni að því leyti, að hún gjörir ekki það, að prestar útdeili sér sjálfir, að annarri eins undantekning og þar er gjört. Því eftirtektarverðara verðr þetta, þegar þess er gætt, að í nefndinni sátu mjög gætnir kirkjumenn. Síðan hefir málið verið látið liggja, án þess nokkuð frekar hafi verið gjört. En raddir frá prestum hafa öðru hverju látið til sín heyra, sem beiðzt hafa þess, að málið yrði aftr tekið fyrir og leyfið veitt. Nú í vetr ritaði einn af gömlu nefndarmönnunum all-ítarlega grein um málið, prestrinn Gustav Jensen, sem kennari er við presta-,,semínaríið" á háskólanum í Kristjaníu. Hafa all-margir tekið til máls, og eru allir með því, en engin rödd heyrist á móti því.

Vegna hvers ætti ekki málið að komast á stað hjá oss í íslenzku kirkjunni austan hafs og vestan? Eins og eg hefi reynt að sýna fram á, er það þýðingarmeira en margr myndi ætla, ef hann lítr á það fljótlega.

---

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

### III.

Jónas Hallgrímsson kvað forðum daga:—

> ,,Austast fyrir öllu landi af einhverjum veit eg stað,
> fjalleyju grœnni og góðri; getið þið, hver muni það."

Það var einmitt þessi eyja, sem hann kvað hér um, Skrúðr, út af Fáskrúðsfirði, ,,austast fyrir öllu landi", er eg leit fyrst augum af Íslandi, mánudaginn 20. Júní. — Norðanþoka grúfði sig yfir landinu, sem eins og sveipaði að sér þokukufl-

inum sér til skjóls í vornæðingnum, enda eru taldir um 200 þokudagar á ári við Berufjörð, sem er litlu sunnar.

Eg sá því lítið til lands. Og þó eg vissi af Reyðarfjalli þar hið efra, fékk eg ekki að sjá það, né heldr fjörð samnefndan því þar norðr af, sem talsvert er orðinn nafnkunnr í kirkjusögu Íslands þessi síðustu ár, fyrir fyrsta og aðal-utanþjóðkirkjusöfnuð landsins, sem þar á heima. Eg vissi af honum þar uppi í þokunni. Og eg fann til þess, hvernig þokan þar og annarsstaðar við föðurlandið, í þessu og öðrum kirkjumálum— og flestum öðrum málum, ekki að eins hamlar útsýn, heldr villir sjónir og tefr fund þess, er menn leita að. — Menn vita af því, en sjá það hvorki né finna, líkt og farþeginn, sem af þilfari leitaði að hinni fögru fjalla- og fjarða-útsýn, en árangrslaust — vegna norðanþoku.

Og það er ekki heldr ávallt einstaklingunum sjálfrátt að lenda í því myrkri — andlega eða líkamlega.

Útlendingunum, sem voru samferða, þótti lítið koma til þess, er vér sáum af Íslandi, og kvörtuðu þeir sáran um kulda. Og heldr hefði eg kosið, að þeir hefði álasað mér en landinu; svo vænt þótti mér nálega um hvern mosastein. Eg get því skilið, hve sárt íslenzkt fólk tekr til ættjarðarinnar. — En sjálfum þótti mér óumrœðilega vænt um þessa landsýn. Eg fór að hugsa um tvo fjarlæga söguatburði: Ísraelsbörn, þegar þau komust yfir Rauða hafið, á leið til fyrirheitna landsins, og Columbus og hans menn, er þeir síðar sáu fyrst landið, þaðan sem eg nú kom. Hve þeir þökkuðu guði, létu það vera sitt fyrsta verk. Skyldi þeim hafa þótt mikið vænna um landsýn en mér þótti nú? Eða þeirra þakklætis-skuld við drottin hafa verið meiri?

Og þó var gleði mín engan veginn óblandin. Eg fann til þess í þokunni og kuldanum ,,úti fyrir Fráskrúðsfirði'', að útlendingarnir skildu það rétt, að land og þjóð var ekki fjölskrúðug; það duldist engum þá, sem frá útlöndum kom, að þessi fóstra mín var harla ,,beinaber, brjóstin mögr og fölar kinnar'', og að þeir, sem þar búa, eiga við marga óblíðu að stríða. En því hrumari sem einhver móðir er, þeim mun meira kærleik eiga börn og náungar hennar að auðsýna henni. Og

ef börn og brœðr vorir skyldi sjúkir, þess betr skyldi þeim hjúkrað. Þannig fann eg, að bróður-atlotin ætti að vera gagnvart Íslandi, hinni íslenzku þjóð, en einkum hinni íslenzku aumstöddu móðurkirkju, —hinni andlegu móður vorri.

Og nú, þegar eg var loks kominn í þetta orlof heim, fann eg það bezt, hve fátœkr eg var, alinn upp að sumu leyti við andlegan skort í kristilegri óáran, og átti nú svo lítið til að miðla af. Eg lifði nú upp aftr í huga mínum œskuárin þar heima: hið andlega líf, sem auðsjáanlega lá víða í fjörbrotunum; drykkjuskap og ósiði ýmsa, sem víða var orðin íþrótt manna, komið í stað fornrar frægðar; kuldann, ísinn og vetrinn, — allt hið ömurlega þoku- og kulda-ástand lands og þjóðar, ytra og innra, — og svo alla sólskinsbletti og sælustundir, alla hvíld og kyrrð, alla náttúrutign og eins allan hrikaleik illviðra og náttúruafla.

Júní-sólin og Desember-myrkrið tók að kveðast á í huga mínum — í öllum skilningi. — Eg sté fyrst fótum á land í Nesi við Norðfjörð á hádegi 20. Júní. Prestinn þar, séra Jón Guðmundsson, heimsótti eg. Raunar var hann viðriðinn afgreiðslu skipsins sem póstafgreiðslumaðr, en hann og kona hans tóku mér mjög ljúfmannlega. Hann er í tölu hinna yngri presta, hefir verið prestr um tíu ár. Kirkjan, sem hann þjónar, var flutt frá Skorrastað að Nesi, þar sem þorpið eða kauptúnið er. Þau prestshjónin sýndu mér kirkjuna, og var það hin fyrsta kirkja á Íslandi, sem eg sá á ferð minni, eins og séra Jón var hinn fyrsti meðal prestanna, sem eg fékk að sjá. Kirkjan er ný-gjörð úr timbri og kostaði á 6. þús. krónur. Er það afar-verð fyrir ekki stœrra né vandaðra hús, þó hún megi vel teljast góð kirkja eftir íslenzkum mælikvarða. Ber margt til þess, að kirkjubyggingum á Íslandi, þó þær hafi tekið miklum framförum og umbótum síðustu árin, er enn mjög ábótavant og að þær eru víða fremr ófagrar. Eg sá til dœmis hvergi fallegan kirkjuturn. — Fyrst skortir útlendan samanburð í hugum þeirra, er fyrir verkum standa; svo skortir íslenzka smiði að jafnaði mjög tilfinnanlega allt „praktiskt“ í þeirra verklegu menntun; og loks er efni það, sem lang-oftast er haft til þeirra bygginga, mjög lélegt timbr og auk þess

afar dýrt. Og þó var mér sagt, að þrátt fyrir það og hinn erviða aðflutning á efni um Ísland væri smíðalaun hálfr byggingarkostnaðrinn. Ef svo er, þyrfti það nauðsynlega að breytast, meðan kirkjurnar eru þá ekki heldr meira listasmíði en margar þeirra eru.

Naumast skil eg annars í því, að flesta, sem til Íslands koma utanlands frá, stór-furði ekki á því, að sjá í landi, sem jafn-mikið á af grjóti, það nálega ekkert hagnýtt til húsabygginga, en húsabœtr aðallega fólgnar í timbrbyggingum úr hinu lakasta útlenda efni. Auk þess er litlum vafa bundið, að brenna mætti tígulsteina eða múrsteina til bygginga á Íslandi. Flestar mótbárur gegn steinhúsum eru lítils virði. Íslenzkir verkamenn þurfa almennt að læra steinhögg eins og þeir nú læra slátt og sjómennsku.

Næsti viðkomustaðr var Seyðisfjörðr. Þar er, eins og kunnugt er, aðalkaupstaðr austan lands og norðan til Akreyrar. Margt hafði eg þaðan heyrt; því margir kunningjar mínir hér vestra eru kunnugir í Seyðisfirði, en aldrei hafði eg þangað komið áðr. Í þetta skifti gjörði þokan og kuldinn sitt til að gjöra útlit fjarðarins hið ömurlegasta. Gróðr var enn sár-lítill fyrir austan land og kuldanepjan dœmalaus, fannst mér, fyrir þá árstíð. Inn Seyðisfjörð gat eg ekki annað en hugsað til þessarar vísu Jónasar Hallgrímssonar:

,,Nú er sumar í Köldukinn — kveð eg á millum vita—.
Fyrr má nú vera, faðir minn, en flugurnar springi af hita."

Kinn fóstrunnar var virkilega köld í þetta sinn. Snjórinn og gaddrinn teygðu tungurnar niðr til fjarðarins eins og dauðþyrst í það að losna úr sínum klakaböndum og faðmlögum hinna œgilegu fjallskriðna, — og verða að hlýrri gróðrarskúr. Sólarhringinn, sem eg dvaldi þar í kaupstaðnum, birti aldrei vel til og sá eg því ógjörla útsýnið. Þó lyfti Bjólfr (tindrinn bak við fjarðarbotninn að norðan) eitt augnablik þokuhetti sínum og lét mig sjá skallann, er minnti á hin voðalegu tröll, er engin járn bitu. Mér fundust aðfarir hans engu líkari en Göngu-Hrólfs við Karl heimska, er hann sópaði hallargólfið með skeggi hans. Þannig leizt mér á trölldóm fjallanna við Seyðisfjörð. Eg held, að engum geti dulizt, með

sögu kaupstaðarins í huga, hættan, sem af þeim stendr fyrir líf og eignir manna. En nær er mér að halda, að andlega hættan sé ekki stórum minni á ýmsum stöðum föðurlandsins, sem stafar af kuldanum og snjónum í ríki andans.—Eg hefi enga löngun til að fara með ástœðulausa hrakspá, — búa til kirkjulega Krukkspá úr þessum orðum; en mér er annt um, að menn skilji fleiri hættur en þá, sem vofir yfir eignum og lífi líkamans.

Seyðfirðingar tóku mér, alveg ókunnugum, sérstaklega alúðlega. Meðal annarra heimsótti eg þar Gísla bróður séra Jóns Bjarnasonar í W.peg og Skafta Jósefsson ritstjóra. Séra Jón Bjarnason var prestr Seyðfirðinga frá 1880 til 1884, er hann hvarf aftr vestr til Winnipeg. Áðr en hann gjörðist prestr f Seyðisfirði hafði hann dvalið ein sjö ár hér vestra. Í hans tíð gengu kirkjumál og bindindismál þar mjög vel*). Síðan hann fór af Seyðisfirði hefir ýmsum sögum farið af safnaðarlífinu þar. Mér fannst á mörgu, að hin oft nefnda óánœgja við prestinn þar myndi talsvert orðum aukin. Taldi eg mig koma einum degi of seint til Seyðisfjarðar, því daginn áðr, 2. sd. e. trín., fór þar ferming fram í kirkjunni. Mér var sagt, að beðið hefði verið eftir tveimr börnum, sem ekki voru komin til lögaldrs fyrr en þetta. Það er virkilega eitthvað öfugt við það, að telja nokkrar vikur eða daga svo þýðingarmikið atriði, að án þeirra megi alls eigi ferma ungmenni kirkjunnar. Þegar kirkjan segir um slík atriði: *þú skalt ekki*, í stað þess að segja: *þú ættir ekki*, þá er hinn evangeliski andi nýja testamenntisins horfinn. Á Íslandi hefir kirkjan reynt með ytri löggjöf að koma í veg fyrir kristnispjöll, í stað þess að leggja aðaláherzluna á að mennta meðlimi kirkjunnar andlega og ná hjörtunum á vald kærleikans, sem komi í stað lögmálsins. Í því liggr eitt aðalmein vorrar íslenzku kirkju, sem þarf bráðrar lagfœringar. Aðalspurningin verðr jafnan: hvað eru lög?—stundum gefin út af ókirkjulegu þingi, en ekki: hvað er andi Krists og hinnar postullegu kirkju? Nærri má geta, hvort muni heillavænlegra fyrir kirkju föðurlandsins. Ávextirnir eru einnig sýnilegir.—Það er ekki fullnœgjanda að vefja barnið reifum.

Vitanlega er aftr ákaflegt meiningarleysi í þessum litlu kirkjulegu hreifingum heima. Þær lenda mest við það að sníða upp eða auka veraldlega löggjöf hjá öðrum hluta kirkjunnar, en hjá hinum að brjótast undan þeim lögum eða brjóta þau. Það er ekki andlega hliðin á málum kirkjunnar, sem hefir verið aðalatriðið í því starfi. Það, sem borið hefir fram hin-

---

1) Nei, ekki kirkjumálin.—Ritst. „Sam."

ar kirkjulegu hreifingar á Íslandi í seinni tíð, hefir ekki verið það, að losa anda mannsins úr álögum hins illa og ókristilega, heldr að losa gjaldþegninn undan sköttum eða skyldum laganna — eða eitthvað því náskylt. — Fríkirkjuhreifingin, og meðal annars fríkirkjufundrinn, sem haldinn var í Seyðisfirði í fyrra, ber vott um þetta. Óánœgjan með prestinn, biluð trú og nálega opinber mótspyrna gegn hinu kristilega og kirkjulega, hvatti víst til þess fundar. En þegar á fund er komið, er það einungis fríkirkja, sem einhverjir leiðtogar þar vilja stofna, — ekki svo sem losast við prestinn, né kirkju, né kristindóm, — að eins fá fríkirkju. En einkennilegt má líklega telja það, að Þorsteinn Erlingsson er fenginn til að tala fyrir og leggja ráð á með fríkirkju þessari og kosinn í nefnd til að koma henni á fót. Og enginn maðr sér neitt öfugt við annað eins og þetta; ekkert orð hefir verið sagt um annan eins kirkjulegan skrípaleik sem þennan fríkirkjufund Seyðfirðinga; ekki einu sinni Þorsteinn, sem virðist þó skilja, að hann geti tæpast orðið lúterskr fríkirkju-hyrningarsteinn, skorast undan slíku starfi, eftir að hafa sáð sínum kirkjulegu og kristilegu þyrnum út um allt land og eins og sannr Pílatusar postuli reynt að flétta Kristi þyrnikórónu að nýju. — Vafalaust er það, að maðrinn, sem setti saman hina ógætilegu guðlasts-sögu ,,Kristniboðarnir'' í ,,Sunnanfara II, 4 A, hefði víst rist sitt níð öðru eins, ef hann hefði ekki sjálfr tekið þátt í þessari kirkjulegu hreifing. Sú saga Þorsteins er vafalaust ein hin gálausasta og hatrsfyllsta árás á trúboð og trú kristinna manna, sem maðr, upp alinn innan kristninnar, hefir frá sér látið. Fyndnin er fengin að láni, — allt nema guðlastið og illskan til kristinna manna og ,,kristniboðanna'', 3 merkra presta á Íslandi, sem á *synodus* 1892 minntu á þá skyldu kristinna Íslendinga, að styðja trúboð kristinna manna meðal heiðingja. Sú saga er alveg ekki falleg fríkirkjutrúarjátning.

Á Seyðisfirði var eg í landi um nóttina—fyrstu nótt mína í landi. Um kvöldið sat eg í húsi einu þar í kaupstaðnum við ýmsar samrœður fram um miðnætti. Eg var víst að bíða kvöldskugganna. En þeir komu ekki; 20. Júní þekkir ekkert kvöld á Íslandi; þá verðr þar aldrei framorðið, aldrei dimmt. Því hafði eg algjörlega gleymt. — Vitaskuld afsakaði eg gleymsku mína og fór til gististaðarins. En mikið undr langaði mig til þess, að Júní-sólin táknaði aðra birtu, sem lýsti þannig andlega lífið, að það væri ávallt bjart kristilega yfir Íslandi, engir kvöldskuggar fyrir kirkjuna, engin sólhvörf fyrir safnaðarlífið.

## Prestsvígsla.

Fjórði sunnudagr eftir páska—7. Maí—var stór-mikill hátíðardagr í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg. Guðfræðiskandídat Rúnólfr Marteinsson var prestvígðr við hádegisguðsþjónustuna þar þann dag. Prestsvígsluna framkvæmdi forseti kirkjufélagsins íslenzka, séra Jón Bjarnason, með aðstoð þeirra séra N. Steingríms Þorlákssonar, séra Jónasar Sigurðssonar, séra Björns B. Jónssonar og séra Jóns J. Clemens. Séra Friðrik J. Bergmann var einnig kominn til bœjarins meðfram til þess að taka þátt í prestsvígslu-athöfn þessari, en hindraðist frá því sökum sjúkleika. Séra Steingrímr prédikaði á undan vígslunni með part af guðspjalli dagsins („Hvers þér biðjið föðurinn í mínu nafni" o. s. frv.) fyrir texta. Við kvöldguðsþjónustuna í kirkjunni sama dag prédikaði séra Björn B. Jónsson og lagði út af Jóh. 14, 27 („Frið læt eg eftir hjá yðr" o. s. frv.).

Kandídatinn, sem prestsvígsluna tók, var ný-útskrifaðr frá guðfrœðisskóla *General Council*-manna í Chicago með mjög loflegum vitnisburði. Og til þess að byrja með var hann vígðr til þess að þjóna Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg í stað séra Jóns Bjarnasonar meðan hann verðr burtu á Íslands-ferð sinni.—Ágrip það af æfisögu séra Rúnólfs, sem hér fer á eftir, var lesið upp í kirkjunni á undan vígslunni.

---

Eg, Rúnólfr Marteinsson, er fœddr 26. Nóv. 1870 í Gilsárteigi í Eiðaþinghá í Suðr-Múlasýslu á Íslandi. Foreldrar mínir eru Marteinn Jónsson, Marteinssonar að Keldhólum á Völlum í Suðr-Múlasýslu, og Guðrún Jónsdóttir, Bergssonar, er prestr var að Hofi í Álftafirði í sömu sýslu. Eg ólst upp hjá foreldrum mínum í Gilsárteigi þar til eg var 11 ára. Þá fluttum við að Eyvindará í sömu sveit, og þaðan eftir tveggja ára dvöl fórum við til Winnipeg árið 1883. Eftir tæpa ársdvöl þar, í húsi hr. Eyjólfs Eyjólfssonar, fluttumst við til Nýja Íslands, að Keldhólum í Breiðuvík, og hafa foreldrar mínir búið þar ávallt síðan; en eg var þar að eins fram á næsta vetr. Svo að segja í byrjun ársins 1885 yfirgaf eg föðurgarðinn og fór til móðurbróður míns, séra Jóns Bjarnasonar í Winnipeg. Hjá honum og konu hans, frú Láru, dvaldi eg þar til vorið 1889, nema hvað eg á sumrum var oft í vinnu annarsstaðar. Vorið 1885 fermdi séra Jón mig ásamt öðrum ungmennum við Íslendingafljót í Nýja Íslandi. Árin, sem eg dvaldi í Winnipeg, gekk eg á alþýðuskóla bœjarins. Vorið 1889 lagði eg á stað vestr í land og fór að kenna á alþýðuskóla meðal Canada-manna, sem var 10 mílur frá Russell, Manitoba. Þar eftir kenndi eg einn vetr í Nýja Íslandi. Haustið 1870 fór eg á stað til St. Peter, Minnesota, og stundaði nám við Gustavus Adolphus College næstu fimm vetr; en á sumrum var eg við kennslu, fyrst í Russell, Man., og þar eftir í Garðar- og Eyford-byggðum í Norðr-Dakota. Frá Gustavus Adolphus College útskrifaðist eg vorið 1895. Næsta ár kenndi eg við Eyford, N.-D. Að hausti 1896 lagði eg á stað til Chicago til að stunda nám við General Council-prestaskólann þar, og var eg þar þrjá vetr. Síðastliðið sumar vann eg lítilsháttar að missíónarstarfi fyrir

kirkjufélag vort. Miðvikudaginn 26. Apríl 1899 útskrifaðist eg af prestaskólanum í Chicago.

Margir hafa hjálpað mér á minni stuttu lífsleið. Fyrir utan umönnun foreldra minna og tilsögn kennara minna, sem eg fæ aldrei launað, bróðurleg atlot skyldmenna og félaga minna, er oft hafa veitt mér aukinn þrótt, og drengilega hjálp minna mörgu vina í Norðr-Dakota ásamt öðrum þeim, er veittu mér atvinnu og á einn eðr annan hátt studdu að því, að eg gæti haldið áfram námi mínu, minnist eg sérstaklega með innilegu þakklæti og klökku hjarta hins einlæga kærleika og mörgu velgjörða séra Jóns Bjarnasonar og konu hans, frú Láru, er fyrst opnuðu fyrir mér möguleik til mennta. Guð launi þeim, sem mér hafa hjálpað, og veiti mér styrk til að reynast trúr.



*Lead, kindly Light* eru upphafsorð enska sálmsins, sem birtist í þessu blaði „Sam." í íslenzkri þýðing eftir hr. Jón Runólfsson. Það er einn hinna allra frægustu sálma, sem til eru á enskri tungu. Höfundrinn var upphaflega eitt af hinum stóru ljósum biskupakirkjunnar á Englandi, en sleit sambandi við hana og gekk inn í rómversk-kaþólsku kirkjuna árið 1845. Og 33 árum síðar, árið 1878, var hann hafinn til kardínála-tignar af Leó páfa hinum þrettánda. Hann andaðist árið 1890 nærri því níræðr. Sálminn, sem hér er um að ræða, orkti hann árið 1833 á hafi úti, á sjóferð í Miðjarðarhafinu. Fyrirsögn sálmsins er: „Skýstólpinn".

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 309½ Elgin Ave., sendir „Sam." út.

---

Hr. *Jón A. Blöndal*, 207 Pacific Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam."

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.